# RÍKISSTJÓRNIN SPRUNGIN

Arðrændir og kúgaðir allra landa - sameinist !



# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)

19.tbl. 8.okt-22.okt. 1979 Sími 28962 Verð kr. 200.



**Starfsfólk á heimtingu á upplýsingum**

# Niðurskurðurinn ekki einkamál yfirmanna ríkisspítalanna –

3

Í viðtölum við framkvæmdastjóra og starfsmannastjóra Ríkisspítalanna kemur fram að yfirmenn stofnunarinnar eru ekki sammála fyrirhuguðum niðurskurði. Þrátt fyrir þessa afstöðu þeirra hefur ákvörðunin sem Stjórnarnefnd sendi frá sér í júlí ekki verið dregin til baka og enginn sem við höfum rætt við hefur gefið í skyn að svo verði gert. Yfirstjórn spítalanna hefur hins vegar ekki gefið starfsfólki neinar upplýsingar um það hvar þessi niðurskurður muni koma fram. Starfsfólki spítalanna virðist ekki vera talið koma það neitt við þótt til standi að fækka um 300 manns, auka vinnuálagið og jafnvel að loka deildum. Yfirmenn deilda hafa jafnvel látið að því liggja við fólk sem vinnur á deildum, með mörgum óheimiluðum stöðum, að þar sé nú allt í lagi, þar verði örugglega ekki fækkað. Þetta er gert án þess að yfirstjórn spítalanna hafi gefið út neina yfirlýsingu um það a.m.k. ekki opinberlega.

# Ísland greiddi atkvæði með löglegri stjórn Kampútseu

8



Helga Sigurjónsdóttir (Mynd: VB)

## „Almenningi talin trú um að hann hafi ekki vit á skipulagsmálum"

sjá opnu!

# Fjársvik og fréttaflutningur

**Um hvað skrifa svo dagblöðin?**

Í síðustu viku birtu flest dagblöðin fréttir af niðurstöðum athugana á skipakaupum frá Noregi. Helstu niðurstöður eru þær, að við kaup á 18 skipum hafa kaupendur gert baksamninga um endurgreiðslu á samtals 630 milljónum af kaupverði samkvæmt kaupsamningum eða 35 milljónir á skip að meðaltali. Kaupendur hafa þannig gefið íslenskum sem norskum stjórnvöldum upp of hátt kaupverð og svikið með því út hærri lán og hærri gjaldeyris - yfirfærslur en þeim bar. Fé þessu hafa kaupendur varið til kaupa á skipsbúnaði og til persónulegra nota.

Fullyrða má, að fjársvik á hvert skip nema hærri fjárhæð en allir þeir fangar, sem nú afplána refsivist fyrir þjófnaði eða fjársvik, hafa á samviskunni. Einnig er óhætt að fullyrða, að enginn skipakaupenda þarf að hafa áhyggjur af refsivistun og tæplega af refsingu yfir höfuð fyrir glæpi sína. Þetta er fullyrt af þeirri einföldu ástæðu að ríkisvaldinu er stjórn-

2

MORGUNBLAÐIÐ, FÖSTUDAGUR 28. SEPTEMBER

Skattlegri rannsókn skipakaupanna frá Noregi lokið:

**Baksamningar að upphæð 635 milljónir kr.**

SAMKVÆMT niðurstöðum rannsóknar embættis skattrannsóknastjóra á skipakaupum frá Noregi fengust upplýsingar um baksamninga að upphæð 8,3 milljónir norskra króna eða sem svarar til 635 milljóna íslenzkra króna. Samkvæmt niðurstöðum rannsóknarinnar ... til 27 skipa af þeim 47 sem keypt voru til ... svarsmanna þeirra. Eitt mál var sent beint til ríkissaksóknara. Tvö hafa þegar farið fyrir dómstóla og hefur þegar verið dæmt í öðru þeirra, svonefndu Grjótjötunsmáli.

Fimmtudagur, 27. september 1979, 211. tbl. 69. árg.

Rannsókn skattrannsóknarstjóra á skipakaupum frá Noregi er lokið:

**Kaupendur fengu 630 milljónir undir borðið**

Rannsókn embættis skattrannsóknarstjóra lokið. Samkvæmt niðurstöðum ...

**MÖRG SKIPAKAUPAMÁL ENN Í RANNSÓKN KERFISINS**

Dagblaðið 27/9 '79

Þjóðviljinn 28/9 '79

með fréttirnar

Rannsókn skipakaupanna lokið hjá skattrannsóknastjóra

**630 miljónir undir borðið**

Nýlega er lokið rannsókn skattrannsóknadeildar á kaupum 29 fiskiskipa frá Noregi á árunum 1971-1976 og reyndust aðeins 11 ... skattsektanefnd. Sem kunnugt ríkir þagnarskylda um ... vinnslu eru í skattrannsókn ... gjaldeyrisrannsókn, en



Útgefandi: EIK(m-l). Pósthólf 5186 Reykjavík.
Ábyrgðarmaður: Albert Einarsson

# Landsþing framundan

EIK(m-l) munu halda landsþing á næstu mánuðum. Landsþing er æðsta eining samtakanna og hið 4. í röðinni. Það er nú haldið til að draga saman reynsluna í starfinu frá 3. þinginu 1978. Þar skal vega og meta hvort EIK(m-l) geti stofnað kommúnískan verkalýðsflokk þann sem íslenskri alþýðu er svo brýnt að vinna til forystu í stéttabaráttunni. Einnig verður dregin saman framvindan í starfinu við leiðréttingu kreddufestu og villna samtakanna. Það er mat okkar að samtökin og starf þeirra hafi staðnað og að þau þurfi að herða sig og grípa betur á áhugamálum fjöldans til þess að margt verkafólk, æskufólk og sem flestir alþýðusinnar sjái raunverulegan valkost í EIK(m-l). Þingið mun kjósa nýja miðstjórn, velja nýjan ritstjóra Verkalýðsblaðsins og senda út ályktanir um stefnu og starf.

Miklu varðar um þingstörfin að EIK(m-l) sýni góðar framfarir í haust.

Lykilhlekkurinn er þessi: -Félagar og starfseiningar EIK(m-l) verða að móta hlutstæða stefnu í hagsmunamálum fjöldans: verðbólgu, verðhækkunum, húsnæði, niðurskurði félagslegrar þjónustu, kjarasamningum, herstöðvamálinu o.s.frv.

Stefnuna verður að móta fljótt, en byggja hana á athugunum okkar og röddum fólksins. Hana verður að setja fram til umræðu og notkunar, í Verkalýðsblaðinu, samfylkingum, verkalýðsfélögum og víðar - og berjast fyrir framgangi þeirra.

Tímabilinu þar sem EIK(m-l) hafa aðallega almenna sósíalíska stefnu og andæfa einu og öðru án þess að setja fram raunverulegan valkost fyrir fólk verður að ljúka.

Félagar EIK(m-l) geta ekki hvílt sig í "blómareit gagnrýni og hvíldar". Nú er að reyna allar nýju hugmyndirnar í starfi. Þar kemur í ljós hvað er rétt og hvað rangt.

Framkvæmdarnefnd
miðstj. 1.1o. ´79

# Ríkistjórnin sprungin

+ Ríkisstjórnin stóð ekki vörð um hagsmuni verkafólks og annarrar alþýðu.

+ Nýjar kosningar vekja ekki vonir um baráttu gegn arðráni eða um þjóðfélagsvöld vinnandi fólks.

+ Alþýðuflokkurinn og Alþýðubandalagið biðla til verkafólks, en bera ábyrgð á stórfeldum árásum á kjör okkar og réttindi.

SVIKIN LOFORÐ

Alþýðuflokkurinn vill slíta stjórnarsamstarfinu og knýr á um nýjar þingkosningar. Það var blásið í herlúðra og heitið "alþýðustjórn" fyrir síðustu kosningar. Ónýttir kjarasamningar skyldu settir í gildi, kaupmætti skyldi haldið uppi, félagsþjónusta bætt og verðbólgu komið í 3o%. En hvað varð úr efndunum?

- Kjarasamningar voru ekki settir í gildi. Samningstímabil framlengd án lýðræðislegra ákvarðana félaga verkalýðshreyfingarinnar.

- Vísitölubætur voru skertar, öll verkföll sem beindust að því að endurheimta kaupmátt launa hafa verið barin niður með aðstoð ríkisstjórnarinnar. Kaupmáttur hefur lækkað um 1o-15% síðan sumarið 1978 (útreikn. BSRB) og 2-4% 1.mars - 1.sept 1979 (sbr. útreikn. ASÍ)

- Skattar hafa þyngst.

Innan skamms mun loforðaflaumurinn, langsóttar eða falskar útskýringar og afsakanir dynja á kjósendum, jafnt frá stjórnarflokkunum sem stjórnarandstöðu. En sér einhver umtalsverðan mun á tveimur, þremur eða fjórum síðustu ríkisstjórnum?

Gættu vel að atkvæði þínu, kjósandi góður, treystu ekki þingflokkunum. Spurðu þig heldur: - Hvað get ég gert sjálfur?

HVAÐ GERA EIK(m-l)

EIK(m-l) hvöttu fólk til þess að skila auðu í síðustu kosningum, meðan ekki væri til raunverulegur baráttuflokkur verkafólks og annarar alþýðu. Aukning auðra seðla voru veruleg( á annað þúsund) hvað svo sem samtökin geta eignað sér af því.

EIK(m-l) munu nú móta

framh. á bls.6

# MAÓ ER ENN Í KINA

2.október s.l. flytur Þjóðviljinn frétt um að ekki hafi verið minnst á Mao Zedong í hátíðarræðum í tilefni 3o ára afmælis Kínverska alþýðulýðveldisins. Aðeins hafi verið getið um að hann hafi gert ýmislegt gott fyrir 1949.

Hverju sem um er að kenna, þá er þessi frétt röng. Það gæti verið hugsamlegt að ennþá svífi í loftinu meðal Þjóðviljamanna arfurinn frá dögum Stalíns, þar sem ekki var haldin sú hátíðarsamkoma að gerðir bóndans í Kreml væru tíundaðar og dýrðarljóma slegið á. Það kemur því spánskt fyrir sjónir að öðruvísi hátíðarhöld séu haldin í sósíalísku landi.

FJALLAÐ UM MAO Í RÆÐU MIÐSTJÓRNAR KFK

Laugardaginn 29.sept. gerði miðstjórn Kommúnistaflokks Kína grein fyrir mati sínu á 3o ára sósíalískri stjórn í Kína. Það var gert í ræðu, sem varaformaður flokksins Ye Jianying, flutti á hátíðarsamkomu í Alþýðuhúsinu í Beijing. Ræða þessi var samþykkt á fundi miðstjórnarinnar daginn áður.

Í ræðunni er Mao hylltur sem forystumaður kínverslu byltingarinnar, mikill marxisti, byltingarsinni og fremsti fulltrúi flokksins og kínverskrar alþýðu.

Ræða þessi er löng og ítarleg og tekur fyrir bæði sögulega þróun og stöðuna núna, hin margvíslegu málefni innanlands svo sem iðnþróunina, utanríkismál o.s.frv. Í ræðunni er líka fjallað ítarlega um margskonar villur sem gerðar hafa verið m.a. á þeim 27 árum sem Mao var í forystu alþýðulýðveldisins.

Það sem Ye Jianying sagði um Mao var m.a.

"Án kenninga Mao Zedongs væri alls ekkert nýtt Kína í dag. Kenningar hans eru marx-lenínisminn lagaður að og þróaður í kínversku byltingunni. Þær eru árangur þess að algild sannindi marx-lenínismans hafa verið fléttuð inn í sértæk verkefni kínversku byltingarinnar.

Kenningar Maos eru ekki afurð af visku hans eins. Þær eru líka afurð visku baráttufélaga hans, flokksins og byltingarsinnaðrar alþýðu.

Kínversk alþýða mun alla tíð minnast þessara dýrgripa og hún mun ákveðið verja og þróa vísindakerfi kenninga Maos."

Ofangreindar tilvitnanir í ræðu miðstjórnar KFK ættu að sýna, ef menn á annað borð vilja sjá, að Maó er ekki horfinn úr hátíðarræðum. Hann er heldur ekki horfinn úr öðrum ræðum, né daglegri pólitík.

Æ.-

## Fjársvik og fréttaflutningur

Framhald af forsíðu

að af þessum kaupendum og refsi- og rannsóknarkerfinu ræður ríkisvaldið.

Í fréttum dagblaðanna er á það bent, að vegna þagnarskyldu rannsóknarmanna sé þess vart að vænta, að upplýsingar á rannsóknarstigi verði auðsóttar. Almenningur á aftur á móti kröfu á því að þagnarhjúpnum verði aflétt og nöfn skipa og kaupenda verði birt þegar í stað.

UM HVAÐ SKRIFA SVO DAGBLÖÐIN?

Það vekur athygli, þegar mál þetta er skoðað, hversu lítinn mat dagblöðin gera sér úr þessum stórfelldu fjársvikum. Morgunblaðið notar t.d. fjórðung innsíðu fyrir fréttir af svikunum í síðustu viku. Á sama tíma er fjölda blaðsíðna, þ.m.t. forsíðuplássi, eytt í að blása út sorglegt mál út af veitingu skólastjóraembættis. Hið sama má segja um hin dagblöðin, allt frá hinu "frjálsa og óháða" til málgagns "Þjóðfrelsis og og sósíalisma". Þögn ríkisfjölmiðla er skiljanlegri. Það skyldi þó aldrei vera, að skipakaupendurnir eigi dagblöðin eða ráðskist með fréttaflutning þeirra?

## Iðnnemasambands þing framundan

framh. af bls.3

sem hlutfall af raunkaupi sveina, sem yrði til þess að taxtarnir færðust nær raunveruleikanum og menn vissu hverju þeir ættu rétt á. Önnur meginmál verða iðnfræðslan og almenn þjóðmál. Í drögum, sem liggja fyrir þinginu, hafa þjóðmálin horfið, þó svo gert sé ráð fyrir afgreiðslu þeirra á dagskrá þingsins. Ég tel þetta gefa þeim öflum undir fótinn, sem vilja banna annað en ályktanir um kjaramál og iðnfræðslu, sem þýddi, að iðnnemar gætu ekki sagt álit sitt á almennum hagsmunamálum. launþega s.s. húsnæðis- og skattamálum, sjálfstæðismálum o.fl. en allt er þetta nátengt.

Vbl: Nú hefur FJN. haft mjög harða afstöðu til forystu INSÍ og sakað hana um stéttasamvinnu. Eru þetta réttmætar ásakanir og hvernig standa þau mál nú?

H.J.: Ég held að enginn af forystumönnum INSÍ sé svo forhertur, að hann sjái ekki að stefna okkar á seinasta þingi var rétt, varðandi t.d. ríkisstjórnina og ASÍ-forystuna. Þannig hefur ASÍ hunsað samstarfsyfirlýsingu sem í gildi er milli sambandanna og skammtað okkur í askana. Ég held að þetta verði til þess að samstaða vinstri manna á þinginu verði meiri og gott ef svo verður. Og þetta er fyrst og fremst vegna þess að þeir hafa lært, en ekki við. Ég vil þó taka fram að afstaða okkar til forystu sambandsins hefur á stundum verið óbilgjörn, að mínu mati.

Vbl: Nú hefur FJN verið leiðandi í stefnumótun iðnnemahreyfingarinnar, en fulltrúar félagsins hafa um leið neitað að taka að sér trúnaðarstörf fyrir INSÍ. Er þetta rétt afstaða?

H.J.: Þó að FJN sé virkasta félagið, þá á það óneitanlega við veruleg vandamál að stríða. Við missum nú marga af okkar bestu mönnum í sveinafélagið. Ég held að við hefðum getað séð af fleirum til forystustarfa eftir síðasta þing en við gerðum. Þá lögðum við til fólk í sambandsstjórn og mann í ritnefnd Iðnnemans.

Sé sú staða hins vegar, að krafist sé mannafla frá okkur, tel ég, að við verðum að mæta því að einhverju marki. (Þó svo að of seint sé að bæta fyrir afglöp frá því í fyrra). Ég tel hins vegar brýnast að forysta sambandsins verði meira en skrifstofumenn og þar með talinn starfsmaður sambandsins. Þessu mætti mæta t.a.m. með launuðum formanni einhvern hluta ársins. M.ö.o. tel ég brýnt að breyta hefðbundnu hlutverki forystunnar þannig að hún nýtist félögunum betur.

## • Ath! •

Verkalýðsblaðið óskar eftir starfskrafti til að vélrita einn dag á hálfsmánaðar fresti. Hafið samband við Októberbúðina á horninu á Frakkastíg og Grettisgötu.

# BHM: Kjaradómi frestað

Eftir að launamálaráð BHM lagði fram kjarakröfur fyrir 1.ágúst sl. tók við hefðbundin leið.

Ríkisvaldið svaraði kröfunum bréflega. Fyrir hönd fjármálaráðuneytisins sagði Örlygur Geirsson að ríkið vildi ekki samþykkja neinar kröfur sem hefðu í för með sér útgjaldahækkun!

Sáttasemjari hélt einn fund með deiluaðilum (hvorum í sínu herbergi). Útkoman varð nefnd "til að glugga í kröfurnar". Hún hefur haldið einn fund.

Nú eru samningamálin komin til kjaradóms. Hann hafði í upphafi 3.vikna frest. Málsaðilar hafa hins vegar samþykkt að veita honum a.m.k. 4.vikna frest til viðbótar. Rökin munu vera þau að bíða þurfi eftir ASÍ og BSRB. Sé svo sýnir það betur en annað hve frumkvæði, sjálfstæði og lýðræði stéttarfélaga er orðið takmarkað. Árangur kjarabaráttunar er líka eftir því lélegur.

BHM hóf könnun sína á hug launafólks í BHM til verkfallsréttar 20.sept. Kynning á málinu var lítil af hálfu BHM, en svo virðist að árangur atkvæðagreiðslunnar verði jákvæður, ef dæma má af undirtektum fólks á vinnustöðunum. Úrslit verða kynnt í Verkalýðsblaðinu síðar.

Fréttaritari.

GERUM STÉTTARFÉLÖGIN AÐ BARÁTTUTÆKJUM

# Niðurskurðurinn ekki einkamál yfirmanna Ríkisspítalanna

Ákvörðun stjórnar ríkisspítalanna frá því í júlí, um niðurskurð á stöðugildum á spítölunum, virðist standa. Þrátt fyrir það hafa yfirmenn spítalanna ekki enn séð ástæðu til þess að gefa starfsfólki neinar upplýsingar um það hvar niðurskurðurinn muni koma fram.

Samkvæmt viðtölum Verkalýðsblaðsins við framkvæmdastjóra og starfsmannastjóra ríkisspítalanna, eru þeir ekki sammála um fyrirhugaðan niðurskurð.

Niðurskurðarhugmyndirnar þýða fækkun starfsfólks um 300 manns. Samt er eins og yfirmenn haldi að niðurskurðurinn komi fólkinu ekki við! Yfirmenn sumra deilda hafa látið að því liggja við fólk sem vinnur á deildum, þar sem margar óheimilaðar stöður eru, að þar sé allt í lagi. Þar verði örugglega ekki fækkað.

Það getur ekki talist einkamál yfirmanna ríkisspítalanna hvaða þjónustu ætlunin er að skerða - og hvort og hve margt fólk á að víkja úr starfi.

Við hljótum að gera þá kröfu að spilin verði lögð á borðið fyrir starfsfólkið nú þegar.

Upplýsingar sem blaðið hefur birt að undanförnu um niðurskurðarmálið eru ekki frá yfirmönnum fengnar, heldur eftir öðrum leiðum.

Upplýsingarnar hafa ekki verið rengdar, enda byggjast þær á fjárlögum og plöggum fjármálaráðuneytisins um heimilaðar stöður.



Davíð Gunnarsson, framkvæmdarstjóri ríkisspítalanna. (Mynd: VB)

# „Framkvæmum aðeins ákvarðanir Alþingis"

### rætt við Davíð Gunnarsson, framkvæmdastjóra Ríkisspítalanna

- Verður staðið við ákvörðun Stjórnarnefndar frá því í júlí um að fækka niður í heimiluð stöðugildi á Ríkisspítulunum?

Davíð: Já, sú ákvörðun stendur enn.

- Nú er fyrirsjáanlegt að slíkt þýðir niðurskurð, annað hvort fækkun sjúkrarúma á deild, eða jafnvel lokun deilda. Hvert er álit þitt á slíkum sparnaði?

Davíð: Ég vil taka það fram að Stjórnarnefndin er ekki raunverulegur ákvörðunaraðili í þessu máli. Alþingi Íslendinga samþykkir fjárlög, og við erum aðeins að framkvæma þeirra ákvarðanir. Við fáum ekki meiri fjárveitingu en þeir ákveða.

Ég er hins vegar sjálfur algerlega á móti því að það sé dregið úr fjárveitingum til heilbrigðiskerfisins. Ég tel að okkar heilbrigðisþjónusta sé vel rekin og þar sé gætt mikils aðhalds í rekstri. Ef miðað er við nágrannalönd okkar t.d. Norðurlöndin, Bretland og Bandaríkin er sú heilbrigðisþjónusta sem hér er veitt tiltölulega fullkomin og þar er ekki bruðlað með fé. Ef það er ætlunin að reyna að spara í heilbrigðiskerfinu á annað borð, finnst mér að það verði þá að líta á það í heild og reyna að spara á öllum sviðum þess en ekki ráðast eingöngu á eina stofnun, Ríkisspítalana.

-in.

### Starfsfólk fær ekki upplýsingar um niðurskurðinn

# „gæti valdið óþarfa ugg"

### segir Pétur Jónasson, starfsmannastjóri Ríkisspítalanna

Við hringdum í Pétur Jónasson starfsmannastjóra Ríkisspítalanna og spurðum hann fyrst hvað raunveruleg stöðugildi á Ríkisspítulunum væru mörg. Pétur sagði að Launadeildin hefði ekki nýrri upplýsingar um það en síðan 8. september s.l. en þá hefðu starfsmenn verið tæplega 1850. Þetta væri talsverð fækkun síðan í sumar þegar sumarafleysingafólkið bættist við, en þá komst fjöldinn allt upp í 2200 stöðugildi. ( Þess má geta að stöðugildi, sem heimiluð voru á fjárlögum yfirstandandi árs voru um 1560 - innsk. Vbl. )

Er Pétur var spurður hvort ætlunin væri að framkvæma þá fækkun, sem yfirlýsing Stjórnarnefndar frá í sumar kveður á um, sagði hann að reynt væri að vinna að því. Hins vegar væri augljóst öllum, sem til þekktu, að það væri nánast ómögulegt í framkvæmd. Stefnt væri að því að fara niður fyrir 1800 til að byrja með og sjá síðan hvernig það gengi.

Pétur vildi ekki nefna neinar deildir af þeim, sem eru efstar á blaði hjá þeim varðandi niðurskurinn. Hann sagði að með því að gefa slíkt upp gæti það valdið óþarfa ugg hjá starfsfólki þeirra deilda. Við spurðum Pétur þá hvort starfsfólk, sem hyggst segja upp starfi sínu, gæti ekki fengið upplýsingar um það t.d. hjá yfirmanni deildarinnar hvort einhver yrði ráðinn í þess stað ef það hætti. Hann kvað svo ekki vera, þar sem yfirmenn deildanna hefðu yfirleitt ekki þær upplýsingar, heldur væru þær hjá yfirmönnum spítalanna.

- in.

### Brot á grunnskólalögunum

# Seinagangur hjá fræðsluráði

Stjórn Sambands grunnskólakennara sendi Fræðsluráði Reykjavíkur bréf fyrir rúmum tveim vikum þar sem farið var fram á að gerð verði bragarbót á því ástandi að fleiri en 30 nemendur væru í bekkjardeild.

Í ljós kom er skólar byrjuðu í september að í nokkrum bekkjardeildum voru fleiri en 30 nemendur, enda þótt grunnskólalögin kveði svo á um að það sé óheimilt.

Í einhverjum tilfellum hefur verið reynt að leysa úr þessu með því að aðstoðarkennarar hjálpa til við kennsluna, en bekkjardeildunum er ekki skipt upp í minni deildir. Þetta er allsendis ófullnægjandi lausn. Stefna grunnskólakennara hefur um langan tíma verið að fækkað verði í bekkjardeildum. Kennurum gefst þar með betra ráðrúm til að veita hverjum einstökum nemenda leiðsögn og námsárangur verður betri. Það er gróf aðför að samtökum kennara að hunsa bæði afstöðu þeirra og landslög. SGK og kennarar sjálfir mega ekki láta fræðsluyfirvöld komast upp með slíkt.

Erindisbréf SGK til Fræðsluráðs hafði ekki verið tekið fyrir á fundi er þetta er ritað (4.10) en gera má ráð fyrir að það verði fljótlega. Hver verða viðbrögð Fræðsluráðs? Um það sendi ég frétt í næsta blað. Fréttaritari.

### Félagsráðgjafar mótmæla niðurskurðinum

Blaðinu hefur borist ályktun frá Stéttarfélagi íslenskra félagsráðgjafa þar sem fyrirhuguðum niðurskurði á Ríkisspítulunum er mótmælt. Í ályktuninni segir m.a.: "Stéttarfélag íslenskra félagsráðgjafa telur rétt og nauðsynlegt að líta gagnrýnum augum á rekstur ríkisfyrirtækja. En þessi niðurskurður mun aðeins leiða til verri þjónu þjónustu við sjúklinga og er auk þess árás á kjör og stöðu þeirra lægst launuðu á sjúkrahúsum. Þjónustu á sjúkrahúsum þarf að bæta mjög frekar en hitt og félagið vill því mótmæla þessum aðgerðum harðlega".



Hálfdán Jónsson

# Iðnnemasambandsþing framundan

### Viðtal við Hálfdán Jónsson, járniðnaðarnema

37. þing INSÍ verður haldið nú seinni hluta október. Undanfarin ár hafa þingin verið vettvangur mikilla átaka og skoðanaskipta um stefnu og starf iðnnemahreyfingarinnar. Félag járniðnaðarnema hefur staðið í fararbroddi í þessari baráttu og náð að móta að verulegu leyti samþykktir þinganna. Blaðamaður Vbl. náði tali af einum stjórnarmanna félagsins, Hálfdáni Jónssyni og bað hann að skýra frá, hver hann teldi verða helstu verkefni þingsins, og ýmsu um stöðu iðnemahreyfingarinnar.

Við spurðum Hálfdán fyrst, hvort ekki væri almennt áhugaleysi meðal iðnnema, um þinghald INSÍ.

H.J. Jú, ég held að það sé rétt, að iðnnemar eru ekki með vakandi auga fyrir þinginu, enda eru flest aðildarfélög INSÍ lítið starfandi. Ég held hins vegar, að sú stefnumörkum sem þarna fer fram, sé mikilvæg auk þess sem þarna er samankominn 80 - 100 manna hópur, sem fylgist með og skólast.

Vbl. Hvers vegna gengur svona illa að framkvæma ákvarðanir þinganna?

H.J. Ég held að meginorsök þess sé gölluð forysta og starfshættir. Mikill hluti starfsins er toppbrölt og kallast barátta á máli forystunnar.

Vbl. Hverjir eru helstu gallar forystunnar?

H.J. Forystan þarf að hafa miklu meira frumkvæði. Öll störf hennar þurfa að ýta undir félögin, í stað þess að draga þá fáu virku í starfi inná við í hreyfingunni. Hún verður líka að hafa vilja til að framkvæma stefnu sambandsins.

Vbl. Hver verða meginmál þingsins núna?

H.J. Fyrir mér eru kjaramálin mikilvægust. Meginkrafan er að fá kaup reiknað

framh. bls.2

## STALDRAÐ VIÐ

# .... jafnvel fúll vindur úr rússneskum rassi ilmaði sem besti vellyktandi

Um daginn gerðist það að ég var að opna dós sem á stóð að í væru gaffalbitar. Þegar lokið flettist af dósinni reyndist það sem í ljós kom vera brúnleitur vökvi og hreistur. Gaffalbitar fundust engir í dósinni. Þá gerðist það að kvöldi sama dags að sýnd var í sjónvarpinu ein þessara mynda sem kölluðust því skáldlega nafni "Andlit kommúnismans". Myndirnar voru svo sem ekkert slæmar á að líta og það var jú ekki heldur gaffalbitadósin frá því um daginn. En ekki gat ég komið auga á kommúnismann í myndinni - ekki frekar en gaffalbitana í dósinni.

-oo-

Það er orðið svo margt sem er kallað kommúnismi. Mogginn snýr sér ekki við öðruvísi en að fyrir augu hans ber kommúnismi- í þessu sem hinu, nær og fjær. Væri blessað ef Mogginn segði satt. En því miður, veröldin er ekki eins björt og Mogginn sér hana fyrir okkur sem viljum raunverulegan kommúnisma.

Þættirnir þrír í sjónvarpinu, sem sýna áttu okkur andlit kommúnismans, sýndu í raun og veru andlit sem kommúnistar eru að berjast gegn dag hvern.

Iðjuhöldar og bankastjórar hafa tekið sæti vinnandi fjölda í forystu Kommúnistaflokks Ítalíu. Rauð stefna flokksins fyrr á árum hefur fölnað og er nú bleikari en stefna breska "Verkamannaflokksins" og kallast hún ekki einusinni bleik í því landi.

Í skjóli "kommúnismans" í Júgóslavíu "þrífst milljóna-atvinnuleysi og blómlegur auðvaldsrekstur.

-oo-

Um daginn las ég bók, sem er nýútkomin hjá októberforlaginu í Noregi. Bókin heitir "Marxisminn-vísindi eða opinberunar-trúarbrögð?". Hversu fáránlegt er það ekki að bera saman vísindalegan marxisma og opinberunar-trúarbrögð? En í þessari bók var ekki verið að bera saman. Með rökstuddum dæmum sýnir höfundurinn hvernig marxisminn var skrumskældur og hafinn í æðra veldi og gerður að raunverulegum trúarbrögðum meðal hundruð þúsunda ærlegra kommúnista um allan heim. Hvernig var það - jafnvel fúll vindur úr rússneskum rassi ilmaði sem besti vellyktandi í hreyfingu kommúnista um allan heim um langan tíma. (Allt frá Kína er gott, er okkur svar nú á dögum, og trúin á sósíalismann hefur okkur í æðra veldi.).

Enda þótt trúarbrögð og vísindalegur marxismi eigi ekkert sameiginlegt, hefur trúarlegur menningararfur mótað viðhorf okkar til marxismans og sósíalismans. Þegar jábræður í trú leita sælunnar í himnaríki förum við á kostum og leitum sælunnar í sósíalismanum. Hvorugir spyrja sig raunverulega spurningarinnar um sannleikann. Jábræður trúarinnar vegna þess að þá myndi himnaríkið gufa upp og verða að því sem það er í raun og veru tómar hugmyndir. Við kommúnistar, vegna þess að það særir trúarlega afstöðu okkur til þess sem við berjumst fyrir - til sósíalismans. Það sem við okkur blasir er samfélag fullt af andstæðum og erfiðleikum, innri baráttu stétta sem þá fyrst heyja baráttuna upp á líf og dauða. Samfélag sem býr yfir því að geta þróast til jafnréttis með hagsmuni allrar alþýðu fyrir augum. Í þessari þróun verða stigin mörg villuspor, jafnvel sem erfitt er að kyngja.

Aðeins með því að losa okkur við allar trúarlegar hugmyndir um marxismann og sósíalismann erum við fær um að takast á við þann vanda sem því er samferða að byggja upp sósíalískt samfélag.

Hvernig mátti það verða að svo margir snjallir og harðir bolsar féllu í dvala, iðruðust "synda" sinna, eða létu teyma sig á asnaeyrum við það eitt að Krúsjeff málaði með koltjöru yfir glansmyndina af Stalín? Var það "guðinnsembrást" tilfinningin? Lifir ekki hugmyndin um guðinn ennþá með mörgum ærlegum baráttusinnum?

Bókin sem ég gat um verður sjálfsagt til sölu í Október-búðinni í Reykjavík.

Elli Þ.

## rætt við Helgu Sigurj

"Við gerð skipulags miðb
tilhneiging til að falla fy
manna, því miður oft slæmum
talin trú um að hann hafi e
það hefur í för með sér ákv
Það er Helga Sigurjónsdó

# „Alm um að vit á s



Helga Sigurjónsdóttir
(Mynd: VB)

– Það er sorglegt að sjá hvernig farið hefur verið með annars ágætt land hér í Kópavogi undanfarin ár. Ég er alin upp hér síðan á stríðsárunum og mér finnst að hér hafi verið miklir möguleikar á því að gera skemmtilega og manneskjulega byggð, þar sem tillit væri tekið til fólksins og þá ekki hvað síst barnanna. En hér hefur verið byggt þannig að lítið er um útivistarsvæði hvorki fyrir börn né fullorðna. Á síðustu árum hefur verið ráðist í það að byggja hrikalega þétta byggð, og eru miðbærinn og Engihjallahverfið verstu dæmin um það.

Um og eftir 1970 er byrjað að byggja hér skv. hugmyndum, sem þegar var búið að sanna að væru gallaðar t.d. á Norðurlöndum. Hugmyndum sem voru þar uppi eftir stríð. Í miðbænum er t.d. fjölbýlishús, þar sem nánast ekkert útivistarsvæði er.

– Af hverju er farið þannig að í skipulagsmálunum?

– Um það tel ég mig ekki geta gefið neitt tæmandi svar. En tvennt virðist mér að ráða miklu þar um. Í fyrsta lagi mun það vera keppikefli ýmissa byggingaaðila að tryggja sér mikil og örugg verkefni um langa framtíð. Með slíkum byggingamassa sem fyrirhugaður er á miðbæjarsvæðinu er nokkuð ljóst að sú ósk rætist. Í öðru lagi hafa allt of margir embættismenn og pólitískir fulltrúar í bæjarstjórn slæmar og úreltar hugmyndir í skipulagsmálum. Þar hefur verið leitað tekniskra lausna en mannlegir þættir orðið utangarðs.

– Hér er ráðist í það að byggja mikið meira en þarf til að mæta eðlilegri fólksfjölgun. Reiknað er með miklum fjölda aðkomufólks. Á meðan er ekki hægt að sjá fólki fyrir lágmarksþjónustu. Gömul hverfi hafa líka orðið að sitja á hakanum. T.d. eru 30 ára gamlar götur ómalbikaðar enn - og það miklar umferðargötur.

– Ein aðalrökin fyrir þörfinni á sérstökum miðbæ voru þau að nauð-




Margir halda að miðbærinn sé fullbyggður, en svo er ekki. Það á eftir að byggja 2/3 hluta!
Svörtu fletirnir á myndinni eru þegar byggðir.

# Meira um samnings- og verkf

Vbl. hefur skrifað mikið um samnings- og verkfallsréttinn undanfarið og varað við þeirri óheillavænlegu þróun, að samningsrétturinn verði tekinn úr höndum stéttarfélaganna í hendur heildarsamtakanna.

### Afstaða VSÍ

Afstaða VSÍ er skýr. Alveg nýlegar yfirlýsingar frá sambandinu liggja þó ekki fyrir, en í Mbl. frá 13/4 ´76 segir m.a."Það kann að hljóma einkennilega, en staðreynd er það samt, að eindregin ósk vinnuveitendasamtakanna er, að miðstjórnarvald alþýðusambands Íslands verði aukið, annað hvort með samningum milli verkalýðsfélaga, eða með breyttri vinnulöggjöf."

Það má gefa sér, að þó að VSÍ hafi ekki haft uppi sérstaka herferð vegna þessa máls nú, að beðið er eftir hentugu tækifæri.

### Afstaða ASÍ

Eins og bent var á í seinasta tbl. Vbl., þá stangast á orð og æði þeirra Alþýðusambandsmanna. Í orði kveðnu eru þeir á móti breyttri vinnulöggjöf, en með verkum sínum eru þeir þegar farnir að vinna eftir þeim hugmyndum sem settar hafa verið fram, fyrst og fremst því að samningavaldið skuli vera í höndum heildarsamtakanna. Aðgerðir verkalýðsfélaganna eiga að fara fram innan tíma- og stefnuramma, sem ASÍ setur. Geri félögin þetta ekki, þá er þeim voðinn vís.

Tökum nokkur dæmi: Í Akranesdeilunni frægu, þegar verkakonur höfnuðu að hluta samkomulagi, sem ASÍ hafði gert kom enginn virkur stuðningur fram. Mjólkurbúðakonur, sem voru að reyna að verja rétt sinn til vinnu fengu þögnina í sinn hlut

**ónsdóttur, fyrrverandi forseta bæjarstjórnar í Kópavogi**

æjar og reyndar víðar er viss yrir hugmyndum tæknimenntaðra n hugmyndum. Almenningi er ekki vit á skipulagsmálum, og veðinn hroka í hans garð." óttir, kennari í Kópavogi,

sem segir þessi orð í viðtali við Verkalýðsblaðið, en Helga lét af störfum sem forseti bæjarstjórnar Kópavogs að eigin ósk í febrúar 1979. Þar var hún ein af þremur fulltrúum Alþýðubandalagsins.

Í þessu viðtali skýrir hún frá ýmsum skipulagsmálum í Kópavogi.

# enningi talin trú ð hann hafi ekki skipulagsmálum"

synlegt væri að koma upp e.k. þjónustukjarna í bænum þar sem auðvelt reyndist fyrir bæjarbúa að sækja alla nauðsynlega þjónustu, og menn þyrftu ekki lengur að sækja allt til Reykjavíkur. Vitaskuld er það nauðsynlegt, en ég tel það ekki heppilegt að þjappa þessari þjónustu eins mikið saman á einn stað og gert er ráð fyrir í skipulagstillögunni að miðbænum. Þar er ætlunin að unnt verði að veita allt að 48000 manns alla helstu þjónustu - nú eru í bænum um 13000 manns - svo að afleiðingin hlýtur að verða sú að fáir fá mikla þjónustu alveg við húshornið en margir verði að sækja hana um langan veg. Heppilegra væri að dreifa þessari þjónustu um bæinn.

– Nú var haldin skipulagssýning og einnig borgarafundir um miðbæinn. Hver var aðdragandinn að því?

– Þegar leggja átti fyrir bæjarstjórn s.l. haust endurskoðaða skipulagstillugu að miðbænum þótti rétt að kynna hana bæði nefndarmönnum í helstu nefndum bæjarins og eins almenningi. Það var svo gert þannig að fyrst var haldin ráðstefna þar sem til voru kvaddir fulltrúar í helstu fastanefndunum og síðan var haldin sýning og í kjölfar hennar borgarafundur. Þá var ég farin úr bæjarstjórn og veit ekki hvernig staðið var að þeim samþykktum. Á ráðstefnunni voru skoðanir manna mjög skiptar á tillögunni og flestir á því að þéttleiki byggðarinnar væri of mikill. Eftir þessa ráðstefnu samdi Skúli Norðdahl skipulagsarkitekt bæjarins skýrslu um það sem þar gerðist, – eða það átti hann a.m.k. að gera. En ég fæ ekki betur séð en að skýrslan sé mestanpart áróður fyrir ágæti umræddrar tillögu.

– Um borgarafundinn sem boðað var til í sumar er það að segja að þeir urðu að lokum tveir en ekki einn. Á þeim fyrri var það varla nokkur maður utan embættismenn og bæjarfulltrúar sem voru hrifnir af skipulagstillögunni og á fundinum kom fram tillaga um að leitað yrði fleiri lausna en þeirri sem tillagan fól í sér. Fundurinn stóð fram á nótt og var honum frestað án þess að til afgreiðslu tillögunnar kæmi. Síðan var haldinn framhaldsfundur og þá var það að sumir embættismenn og pólitískir fulltrúar sýndu bæjarbúum verulega óvirðingu, ef ekki ósvífni. Það var ekki einasta að hvað eftir annað væri snúið útúr fyrir fólki sem var á annari skoðun en þeir, heldur mátti fólk líka hlusta á háðsglósur og jafnvel snuprur fyrir að hafa aðrar skoðanir en ráðamennirnir. Og eru menn svo að furða sig á deyfð og áhugaleysi almennings um málefni bæjarins?

– Hvernig skýrir þú viðbrögð embættismanna og pólitískra fulltrúa við gagnrýni almennings?

– Við gerð skipulags miðbæjar og reyndar víðar er viss tilhneiging til að falla fyrir hugmyndum tæknimenntaðra manna,því miður oft slæmum hugmyndum. Almenningi er talin trú um, að hann hafi ekki vit á skipulagsmálum, og það hefur í för með sér ákveðinn hroka í hans garð.

– Þú sagði áðan að miðbærinn byði uppá mikil og örugg verkefni vissra aðila. Hverjir eru það?

– Það var ekkert leyndarmál, þann tíma sem ég sat í bæjarstjórn, að þegar ráðist var í skipulag og byggingarframkvæmdir í bæjarhverfum, var það oftar en ekki vegna þess að ákveðnir verktakar væru að verða verkefnalausir. Að vísu var líka sagt að atvinnuleysi í byggingariðnaðinn vofði yfir, en ég held að verkamaðurinn hafi verið nr. 2, en verktakinn nr. 1. Bein afleiðing af þessari stefnu er ótímabær og óþörf þensla og of hröð uppbygging í Kópavogi.

– Oft kvarta ráðamenn sáran yfir svokölluðum þrýstihópum sem heimti allrahanda þjónustu af bænum, svo sem barnaheimili og einsetta skóla, góða leikvelli og göngubrautir og fleira sem gerir daglegt líf almennings betra og þægilegra. En ég held að fremur ætti að gjalda varhuga við þeim raunverulegu þrýstihópum sem hér leika lausum hala og ráða áreiðanlega miklu meira um bæjarmálin en yfirleitt sést á yfirborðinu. Og ég lærði það af veru minni í bæjarstjórn að tengslin milli þeirra aðila og margra pólitískra fulltrúa geta verið býsna náin.

– Nú varst þú fulltrúi Abl. í bæjarstjórn bæði þegar það var í meiri- og minnihluta. Varð einhver stefnubreyting í skipulagsmálum þegar Abl. varð þar forystuafl?

– Það var engin sjáanleg breyting í þeim málaflokki við tilkomu vinstri stjórnar í Kópavogi. Og ég fæ ekki séð að hennar sé von í bráð. Tæknísku sjónarmiðin virðast mér enn sitja í fyrirrúmi.



"Hér .. er byrjað að byggja skv. hugmyndum, sem þegar var búið að sanna að voru gallaðar t.d. í Norðurlöndunum." (Mynd: VB)



Þetta "stílhreina" hús hefur svo til ekkert útivistarsvæði, eftir því sem ljósmyndari VB komst næst. (Mynd: VB)

# allsréttinn

og baktjaldamakk sem miðaði að því að rýja stuðningi meðal annarra stéttarfélaga, í ábæti. Farmenn fengu baktal og illa dulbúnar árásir af hálfu helstu forystumannanna. Grafískri sveinar fengu ódulbúnar hótanir.

## Verkefni framundan

Ég tel, að það verði að vera eitt af megin verkefnum okkar á næstu mánuðum, að sporna gegn þessu. Það á þá bæði við að ef frumvarp um breytta vinnulöggjöf verður dregið á ný fram í dagsljósið og ekki síður að vinna að því að stéttarfélögin haldi samningsréttinum í sínum höndum. Það er beint hagsmunamál félagsmannanna, að svo verði.

Þessi mál þarf að tengja umræðu um undirbúning kröfugerðar fyrir næstu kjarasamninga og það er eðlilegt, að óbreyttir félagsmenn geri þá kröfu, að sá undirbúningur hefjist sem allra fyrst.

Verkalýðsblaðið mun halda áfram með umræðu um þessi mál og reyna að fá fram fleiri raddir.

Ragnar.

Lítum á þennan stubb úr almanaks grein Úlfars Þormóðssonar í sunnudagsblaði Þjóðviljans, þann 23.sept.

●Kjarninn í öllu þessu er: Það breytir harla litlu þótt þjóðin skipti um þá verkamenn sína, sem hún sendir á Alþingi við Austurvöll og það síðan í ráðherrastóla. Þegar skipt er um ríkisstjórn er aðeins skipt um 9 opinbera starfsmenn af mörg þúsund manna bákni. Gott og vel. Til verkanna setja þeir aðra opinbera starfsmenn; þúsundir og aftur þúsundir, sem ef til vill vilja ekki fyrir nokkurn mun að hin minnsta breyting verði á; þeim líður vel í kerfinu sínu, þar sem þeir hafa hreiðrað um sig og þar sem hlutirnir ganga sinn vanagang dag eftir dag, fyrirhafnarlaust, og ekki er við þeim hreyft.

Og það hefur ekki verið við þeim hreyft. Hvenær skyldu Seðlabanka-, Landsbanka, og allrabanka, — síðan ráðuneytis-, deildar- og allir hinir stjórarnir í stjórnkerfinu hafa verið ráðnir til starfa? Ég veit að það er ekki misminni úr mér, að núverandi ríkisstjórn réði þá ekki.

● Ergó:

Við þurfum að breyta stjórnskipulaginu. Við þurfum að veita nýju Alþingi, nýjum ríkisstjórnum: skýlausan rétt til þess að segja upp þeim stjórnum stjórnkerfisins sem þeim sýnist og ráða menn, sem hafa sömu hugsjónir og þeir sjálfir til þess að hrinda hugsjónunum í framkvæmd.

**Úlfar Þormóðsson skrifar**

Án gamans finnst mér þetta skarplega athugað, "aðeins skipt um 9 opinbera starfsmenn af mörg þúsund manna bákni".

Hvernig getur þú Úlfar, með þessi orð á vörunum, stutt svo atorkusamlega flokk, sem undanfarin 40 ár - eftir að hann gaf sig þingræðinu á vald - hefur verið að pota sér inn í þetta bákn. Hvað segir ekki marxisminn um aðskilnað framkvæmdavalds og dómsvalds í þingræðisskipulagi. Hann tryggir,að ríkisvaldið nýtist hvorki til umbóta fyrir alþýðuna, né baráttu fyrir sósíalisma. Úlfar vill skipta um mannskap á bákninu. Bara að það léti nú"skipta á sér". Má svo ekki skipta á dómstólunum og lögreglunni líka?

Með svo einfalda lausn í boði, má snarlega stinga kenningum marxismans um ríkið undir stól. Ágæti Úlfar þetta er of gott til að vera satt.

Hitt finnst mér illa til fundið að þú skulir veitast að því fáa, sem félagi þinn Guðmundur J. gerir vel, þ.e. áfengisvarnarstarfinu.

Rauðmundur.




Undanfarnar vikur hafa borist fréttir af harðnandi átökum milli skæruliða Kúrda og herafla stjórnvalda í Íran. Þjóðernisminnihluti Kúrda, sem byggir vesturhluta Írans, Kúrdistan, hefur um árabil barist fyrir aukinni sjálfstjórn og lýðræði. Bardagar undanfarinna hafa verið blóðugastir þeirra átaka sem geisað hafa frá falli keisarans, og þeir gætu leitt til alvarlegri átaka.

aftökur á föðurlandsvinum Kúrda eru óverjandi glæpur.

Íhlutun risaveldanna í innanríkismál Írans ber með sér hættu fyrir alla alþýðu

# KHÓMEINI OG KÚRÐAR

ÁTÖKIN FRAM AÐ ÞESSU

Bardagar brutust út 15.ágúst s.l. er nokkur þúsund vopnaðra skæruliða Lýðræðisflokks Kúrda (KDP) hertóku nokkrar borgir í V-Íran, þ.á.m. borgirnar Paveh, Sanadaj, Saqqez og Mehabad. Stjórnvöld í Teheran sendu umsvifalaust á vettvang hersveitir og íslamska byltingarverði, í því skyni að tryggja yfirráð ríkisstjórnarinnar á svæðinu. Í bardögum sem fylgdu í kjölfarið létu nokkur hundruð manns lífið. Fjöldi bæja og borga í Kúrdistan urðu fyrir miklu tjóni í bardögunum.

Á næstu tveim vikum sem á eftir fylgdu náði herafli stjórnarinnar aftur öllum mikilvægum borgum í Kúrdistan, þ.á.m. Mehabad, sem er einskonar höfuðborg Kúrdistan. Fjöldi skæruliða Kúrda hörfaði upp í fjöllin við landamæri Írans og Íraks, og hétu þeir því að halda baráttunni áfram.

ÞJÓÐFRELSISHREYFING KÚRDA

Hinar fjórar milljónir Kúrda sem lifa í V-Íran, eru einn þeirra þjóðernisminnihluta sem landið byggja. Um áratuga skeið hafa þeir barist fyrir rétti til að nota sitt eigið tungumál, varðveislu menningar sinnar og sjálfstjórn um eigin mál. Átta milljónir Kúrda sem liggja í nærliggjandi héruðum innan landamæra Írak, Tyrklands og Sovétríkjanna hafa háð sams konar baráttu.

Kúrdar í Íran gegndu mikilvægu hlutverki er keisaranum var steypt af stóli, og við hlið annarra þjóða í Íran börðust þeir við her keisarans á úrslitastundinni.

ÓTRYGGT ÁSTAND

Nokkrir þættir í stjórnmálaþróun í Íran s.l. mánuði ýta undir klofning og átök milli Kúrda go annarra er Íran byggja. Stjórnvöld hafa ekki tekið tillit til krafna Kúrda. Í uppkasti að nýrri stjórnarskrá Írans sem nú er til umræðu er ekkert minnst á réttindi þjóðernisminnihluta í landinu. Þá hafa stjórnvöld beitt óafsakandi harðneskju í garð Kúrda er bitnað hefur illa á allri alþýðu Kúrdistan, og orðið til þess að margir hafa misst trúna á íslömsku byltinguna. Fjöldaaftökur á föðurlandsvinum Kúrda eru óverjandi glæpur.

Íhlutun risaveldanna í innanríkismál Írans ber með sér hættu fyrir alla alþýðu landsins. Hvort um sig vonast risaveldin til að nýta sér ótryggt ástand í landinu til að ná þar ítökum. Sovétríkin hafa verið sérlega virk í að magna spennu í landinu uns upp úr syði. Þau hafa sent mikið magn vopna til Kúrdistan og dreift áróðri er miðar að því að magna deilur Kúrda og stjórnvalda í Teheran. Bandríkin á hinn bóginn hafa gefið út yfirlýsingar um stuðning við ríkisstjórnina og vonast eftir auknum áhrifum í röðum leiðandi stjórnmálamanna.



**Kúrdískir hermenn í vopnahléi í mars. Síðar rauf** Khomeini samkomulagið og sendi hermenn á hendur Kúrdum. (Mynd: UPI)

THE FORGE

WORKERS COMMUNIST PARTY (MARXIST-LENINIST) FOUNDED!




## Kommúnistaflokkur verkamanna (m-l) í Kanada stofnaður

1-2. sept. s.l. héldu Kommúnistasamtök Kanada(m-l) þing, þar sem lýst var yfir stofnun Kommúnista flokks verkamanna(m-l). Þingið sóttu fulltrúar víðsvegar að úr landinu. Kommúnistasamtök Kanada(m-l) voru stofnuð 1975, sem flokksbyggingarsamtök. Árið 1976 hófu samtökin útgáfu málgagns síns The Forge, sem nú kemur út vikulega.

Kommúnistaflokki verkamanna(m-l) í Kanada hafa borist heillakveðjur víðsvegar að úr heiminum, m.a. frá EIK(m-l). EIK(m-l) hafa góð tengsl við kanadíska félagana og hafa gert sameiginlegar ályktanir með þeim, sem birst hafa í Verkalýðsblaðinu.

Verkalýðsblaðið óskar verkalýð og framsækinni alþýðu til hamingju með nýja flokkinn.

Arðrændir og kúgaðir allra landa - sameinist!

## Ríkisstjórnin..

framh. af bls.2

afstöðu sína svo fljótt sem auðið er og miða við aðstæður og getu sína. Þegar í næsta tbl. Verkalýðsblaðsins verður unnt að birta fyrstu svör samtakanna.

Ég hvet lesendur Verkalýðsblaðsins til þess að gaumgæfa vel gerðir stjórnarflokkana og bera þær saman við kröfur vinnandi fólks um lýðræði, mannsæmandi kjör og félagsþjónustu - og við kröfur sósíalista og kommúnista um nýtt þjóðfélag og sósíalisma.

Stjórnarflokkarnir snarféllu á þessu prófi eins og öðrum hingað til, og geta ekki annað.

5.10
Ari Trausti Guðmundss.
formaður miðstjórnar EIK(m-l).

# Kosningar í Noregi - kosningar í Svíþjóð

## Kosningar í Noregi

Þann 16. og 17 sept sl. fóru fram fylkis - og sveitastjórnarkosningar í Noregi. Rauða kosningabandalagið (Röd Valgallianse) vann stórsigur og náði 21 sæti í sveitarstjórnum og 4 sætum í fylkisstjórnum. Fyrir kosningarnar átti Rauða kosningabandalagið 4 sæti í sveitarstjórnum.

Formaður AKP(m-l), Kommúnistaflokks Verkamanna (m-l), Pål Steigan, sagði í viðtali eftir kosningarnar að Rauða kosningabandalagið hafi nú í kosningabaráttunni þróað stjórnmálannin til starfa í sveitarstjórnum, sem hafi vel rökstudda stefnu og allt annað trúnaðartraust en fyrir fáum árum. Þeir hafi lagt fram stóbundna þekkingu og upplýsingar á trúverðugri hátt en áður vegna þess að þeir hafi grafið djúpt og leitað þekkingar. Þetta allt sýnir að það er hægt að berjast fyrir byltingarsinnaðri verkalýðsstefnu, sem er miðuð við norskar aðstæður.

Við erum nálægt því að hafa fulltrúa í sveitarstjórnum um allt landið frá Hammerfest í norðri að Horten í suðri. Við höfðum hlutverki að gegna með þeim fjórum sem við höfðum. Með 21 sveitarstjórnarfulltrúa og 4 fylkisstjórnarfulltrúa verður hlutverk okkar miklu stærra og rödd okkar heyrist ennþá betur.

Rauða kosningabandalagið er samfylking AKP(m-l) og óflokksbundinna sósíalista. Bandalagið hefur ekki haldið uppi sérstöku starfi milli kosninga hingað til en allt bendir til þess að það verði varanleg samfylking sem standi að baki þeim fulltrúum sem kosnir voru.

-Klassekampen-



Fulltrúar Rauða kosningabandalagsins stífluðu puntfoss fyrir utan opinbera byggingu og lögðu vatnið í rör. Aðgerðir gegn takmarkalausum virkjunum, náttúrueyðileggingum og ásókn í land samanna í norðri voru í brennidepli kosningabaráttunnar.

## — í Svíþjóð

Þann 16. sept. s.l. voru þingkosningar og sveitarstjórnarkosningar í Svíþjóð. Bróðurflokkur EIK(m-l) Kommúnistaflokkur Svíþjóðar (SKP) hlaut 5 sæti í sveitarstjórnum, bætti við sig þrem. Ingemar Eriksson, flokksritari SKP, sagði í viðtali eftir kosningarnar að SKP hafi s.l. haust sett sér það markmið að bjóða aðeins fram lista í fáum sveitarfélögum og leggja áherslu á kosningabaráttu í þeim. Boðið var fram í tíu bæjarfélögum og náðust sæti í fjórum þeirra. Í fimm öðrum sveitarfélögum vantaði aðeins örfá atkvæði upp á að sæti næðist. Þetta er árangur sem sýnir að SKP hefur heppnast að brjótast í gegn um fyrsta múrinn í þingræðislegum kosningum.

SKP bauð einnig fram lista í þingkosningunum. Flokkurinn var ásamt fleiri smáflokkum algerlega hunsaður af hinum "lýðræðiselskandi" ríkisfjölmiðlum og varð því að byggja allan kosningaáróður sinn á eigin útgáfu.

-Gnistan-

## Ath!

Október-bókabúðin opnar að nýju miðvikudaginn 10.okt. Hún verður framvegis opin alla virka daga frá 16-19.

Búðin er nú til húsa á horni Frakkastígs og Grettisgötu.

Fólk er hvatt til þess að mæta með budduna og kaupa nú að sem það hefur farið á mis við þann tíma sem búðin hefur verið lokuð.

# Við gerum kröfu til Norðmanna um sanngirni

## Palla svarað

Palli skrifar um Jan Mayen í síðast blaði. Ég vil hvetja fleiri til að skrifa. Í fáum orðum ætla ég að fjalla um grein Palla.

## Réttur norskrar alþýðu

Sögulegur réttur norskrar alþýðu byggist á því að um 150 ára skeið hefur hluti norskrar alþýðu haft sitt lífsviðurværi af veiðum við Jan Mayen. Þessi hefð skapar henni rétt, eða er ekki svo? Útþenslustefna norsku yfirstéttarinnar gagnvart Grænlandi (og Íslandi á sínum tíma) var annars eðlis. Þar var gert á hlut innfæddra, þ.e. þeirra sem áttu (og eiga) allan rétt einnig sögulegan. Jan Mayen var óbyggt land og því ekki um að ræða að nokkur ætti sögulegan rétt. Sá réttur varð til í rás sögunnar (eins og alls staðar) og Norðmenn voru iðnastir við kolann. Réttur Norðmanna til eignar á hluta Suðurheimskautslandsins er ekki til. Norðmönnum bæri að afsala sér eignartilkalli til þess svæðis.

## Réttur Íslands

Við getum vart státað af sögulegum rétti til Jan Mayen. Hins vegar getum við gert kröfur um að sanngirni verði ríkjandi þegar Norðmenn færa út lögsögu við Jan Mayen vegna þess að í því atriði skerast hagsmunir þessara tveggja landa. Um er að ræða sameiginlega nýtingu á fyrst og fremst fiskistofnum og auk þess hugsanlegum náttúruauðæfum í hafsbotninum. Við höfum bent á það hér í blaðinu að það sé sjálfsögð sanngirni að Noregur geri ekki kröfu til þess að miðlína gildi, en virði fullar 200 mílur Íslands. Auk þess að nýting fiskistofna og annarra auðlinda verði sameiginleg og undir eftirliti beggja. Þetta er þegar farið að gerast sbr. með loðnustofninn - sameiginlegar rannsóknir kostaðar af báðum. Vonandi til hagsbóta fyrir báða. Sameiginleg lögsaga að öðru leiti veit ég ekki hvernig má verða. Lögsögn nær til svo miklu fleiri atriða en nýtingar á auðlindum. Eiga ríkin að hafa sameiginlegan her á þessu svæði? Mörg önnur atriði eru mér óljós.

Umræða um þetta væri þörf og betri rannsókna. Vafalaust lætur Verkalýðsblaðið í té pláss fyrir greinar um þetta mál.

-Æ-

Ritnefnd hvetur lesendur til að taka þátt í umræðum í blaðinu. Ekki aðeins um Jan Mayen málið, heldur og önnur mál. Það er svolítið að losna um pennann hjá lesendum og haldi sú þróun áfram verður blaðið líflegra. Ritnefnd.

## Svar til Palla o. fl.

Lesendabréf ykkar eru alltof löng. Er ekki hægt að taka údrætti úr þeim og hleypa fleirum að í einu?

Í 18. tbl. var klausa um "rauðan" fasisma smásamtaka í Svíþjóð, sem afar fáir kannast við. hver er tilgangurinn með birtingu svona efnis? Fréttir frá kosningasigri marx-lenínista í Noregi (fjölguðu bæjar- og fylkisþingfulltrúum úr 4 í 25) og gengi sænskra kommúnista koma aftur á móti hvergi fram í blaðinu. Ræður tilviljun ein fréttavali?

"Palli" segir stefnu EIK(m-l) varðandi Jan Mayen ranga í sama tbl. Hann er fylgjandi sameiginlegri lögsögu Noregs og Íslands en telur EIK(m-l) rugla saman "sögu norskrar borgarastéttar og rétti norskrar alþýðu."

Fyrir það fyrsta er mikilvægt að draga ekki í efa að Jan Mayen er norsk eyja sem búið er að innlima (á hefðbundinn hátt) í kjölfar verulegra efnahagsnota af eyjunni. Enda má skoða tilkall Íslands til auðæfa umhverfis Jan Mayen óháð lögsögu yfir eyjunni sjálfri. Í öðru lagi þarf ekki sameiginlega lögsögu yfir sjó og sjávarbotni umhverfis eyjuna til þess að tryggja íslenska hagsmuni þar - heldur langtíma samninga. Í þriðja lagi gerir stéttaskipting þjóðar það ekki að verkum að maður talar um rétt eða sögu einnar stéttar. Hvert atvik í þróun borgarastéttar er háð þróun stéttabaráttunnar og atvikum í sögu verkalýðsins. Þjóðarréttur, sjálfsákvörðunarréttur, auðlindaréttur o.s.frv. - allt eru þetta þjóðleg vandamál.

Mér finnst sem sé stefna EIK(m-l): Fullar 2oo mílur við Ísland - samningar við Norðmenn um verndun og hagnýtingu auðæfa við Jan Mayen vera rétt.

A.T.




# Til félaga Rúnars um „kollhnýsinn“ o. fl.

Til að byrja með vil ég taka fram að ég er í mörgum aðalatriðum sammála Rúnari hvað varðar leiðréttingarherferð samtakanna m.a. í samfylkingarpólitík. Gagnrýni hans er hörð og óvægin, og það þarf til, en það er ekki sama hvernig hún er sett fra fram. Of neikvæð gagnrýni getur verið meira niðurbrjótandi en uppbyggjandi, en þegar kommúnistar gagnrýna starf sitt er það til að byggja upp.

Reynt skal að gera langt mál stutt, og hér kemur tilraun til að gera skipulegar athugasemdir við grein Rúnars um "kollhnýs samtakanna 21. ágúst o.fl.":

## Vanmat á stuðningsfólki

Málsnotkun Rúnars í sambandi við reynslu okkar af samfylkingarstarfi er mjög neikvæð og síst til að verka hvetjandi á félaga og stuðningsmenn. Þarna á ég m.a. við "einkahreyfing EIK(m-l)", "við gátum ráðið stefnunni án þess að ræða hana" o. fl. Auk þess lýsir þetta megnu vanmati á stuðningsfólki innan samfylkingarinnar...

## Risaveldin eða samstaðan?

Rúnar talar um að 21. ágúst í fyrra hafi okkur þótt mikilvægast að koma að þeirri stefnu EIK(m-l) að Sovétríkin og Bandaríkin eru bæði heimsvaldasinnuð risaveldi, sem stefna á heimsstyrjöld, o. fl., en " í ár litum við svo á að það skipti mestu máli að ná samstöðu við sem allra flest þeirra, sem voru okkur sammála um aðalinntak 21. ágúst, nefnilega baráttuna gegn sovésku hernámi í Tékkóslóvakíu.". Er þetta nú fullgóður rökstuðningur fyrir því að starfa með SHA ( samtökum herstöðvaandstæðinga ) 21. ágúst s.l.? Ég veit ekki betur en"aðalinntakið", þ.e. baráttan gegn sovésku hernámi í Tékkóslóvakíu, geti alveg eins samræmst stefnu Heimdallar...

## Þróunin einstaklingsbundin?

Hvað á Rúnar við þegar hann segir þróunina í rétta átt vera "...nánast einstaklingsbundin ennþá"? Ómeðvituð samtökunum í heild? Að sumir einstaklingar innan samtakanna þróist hraðar en aðrir, eða að aðeins sumir einstaklingar séu í þróun en aðrir ekki? Nóg um það, en það væri gaman að heyra frá Rúnari um þetta.

## Lesið „Baráttuleið alþýðunnar“

Ég held að mistökin í samfylkingarstarfi EIK(m-l) séu u.þ.b. 3ja ára gömul; þá virðist sem einangrunarstefna og kreddufesta

( kemur fram í vinstri róttækni m.a.) setjist að í samtökunum og hindri fjöldastarf. "Baráttuleið Alþýðunnar" (um samfylkingar) ber með sér nokkuð rétta stefnu í þessum málum ( lesið hana). Þannig að búast má við að reynslan geti best nú kennt okkur að starfa rétt. Ég held líka að félagar hafi verið of hræddir við skoðanabaráttuna í samfylkingunum, og kannski vanmetið hæfni sína í að greina og sannfæra aðra um það sem rétt er. Samtökin hafa svo ekki reynst fær um að meta rétt heildarstefnu hinna ýmsu samfylkinga - eða hvað er mikilvægast, eins og bent hefur verið á um 21. ágúst.

Ég ætla ekki að fara nánar út í þetta nú og hér. Þetta er vonandi eitthvert innlegg í umræðuna.

Alda.

(Bréfið er nokkuð stytt. Millifyrirsagnir eru settar af ritnefnd.)

## Skammabréf frá kennara

Ég varð fyrir vonbrigðum, með annars ágætt síðasta Verkalýðsblað.

Greinin um dreifirit, varðandi BHM mál, vakti athygli mína, því þörf á upplýsingum um þessi mál er mikil. Ég vildi því gjarnan nálgast dreifiritið til að fara með það á minn vinnustað.

En viti menn! Það er hvergi nokkurs staðar að finna orð um það, hvar bréfið væri að finna.

Það eru ekki allir svo heppnir að hafa þau sambönd, sem í fljótu bragði virðast vera skilyrði fyrir því að mega dreifa bréfinu.

Það er afskaplega mikilvægt, þegar sagt er frá dreifiritum í blaðinu, að geta þess, hvar þau er að finna. Eða er það ekki rétt skilið, að stór þáttur í pólitík samtakanna sé falinn í orðunum "frá fólkinu til fólksins"? Það hlýtur því að vera kappsmál að koma svona dreifiritum sem allra víðast á meðal vinnandi fólks - eða hvað?

Með kveðjum: Kennari.

# 3000 manns í göngu fyrir sjálfstæði í Varsjá

Laugardagskvöldið 1.sept. gengu 3ooo stjórnarandstæðingar um göturnar í Varsjá í Póllandi til að minnast þess að 4o ár voru liðin frá því að heimsstyrjöldin síðari braust út. Samtímis þessum aðgerðum stjórnarandstæðinga var frá því skýrt að stofnaður hafi verið nýr stjórnmálaflokkur til að berjast fyrir sjálfstæði Póllands.

VERKFALLIÐ Í JÚNÍ '76 - UPPHAFIÐ

Frá því í verkfallinu mikla gegn stórfelldum hækkunum matvara í júní 1976 hefur andstöðuliðið í Póllandi **vaxið mikið. Margar hreyf**ingar stjórnarandstæðinga voru stofnaðar eftir þetta verkfall og hófu síðan fljótlega samstarf sín á milli og við aðrar hreyfingar sem stofnaðar höfðu verið áður.

Sá hópur sem nú hefur **stigið það djarfa skref að** stofna ólöglegan stjórnmálaflokk er fyrst og fremst úr röðum Varnarhreyfingarinnar fyrir mann- og borgaralegum réttindum. Sú hreyfing hefur haft á stefnuskrá sinni auk mannréttindabaráttunnar, baráttu fyrir frelsi og sjálfstæði pólsku þjóðarinnar.




Algeng götumynd í Varsjá: Biðröð fyrir utan matvöruverslun.

(Mynd: Klassekampen)

SAMSKIPTI VIÐ CHARTA 77

Andstöðuhreyfingin í Póllandi og Charta-77 andstöðuhreyfingin í Tékkóslóvakíu tóku upp náið samstarf á síðasta ári. Þessar tvær hreyfingar hafa gefið út sameiginlegar samþykktir gegn sovésku hernámi og drottnun og lagt áherslu á þjóðlegt sjálfstæði og sjálfsákvörðunarrétt í löndunum báðum.

ANDSTAÐAN VEX STÖÐUGT

Stofnun stjórnmálaflokks stjórnarandstæðinga í Póllandi er ljós vottur um að andstaðan gegn sovésku leppstjórninni fer vaxandi. Það þarf verulegt afl til þess að geta tekið slíkt skref í landi þar sem andstöðu er mætt með fangelsunum og ofsóknum. 3ooo manna mótmælaganga um götur Varsjár 1.sept. s.l. er líka vottur um styrk og þor.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ

1 árs áskrift: kr. 3000
1/2 árs áskr.: - 1750
Til útlands : - 5500
Stuðningsáskr: - 5000

Áskrift greiðist á gíró 12200-9



# Er hafin ný sókn gegn her í landi?

Marka aðgerðir Samtaka herstöðvaandstæðinga á dögunum upphaf nýrrar són sóknar í herstöðvamálinu? Það eru mörg teikn á lofti, sem benda til þess. Þingræðisleiðin hefur gengið sér til húðar, því síendurtekin svik kosningaloforða vinstri flokkanna hefur fært mönnum heim sannindi um að þingræðisleiðin ein sér er leið ósigurs í herstöðvamálinu.

Breiddin og hin mikla þátttaka í aðgerðum Samtaka herstöðvaandstæðinga á dögunum, sýnir að leið fjöldabaráttunnar er eina raunhæfa leiðin til sigurs. Aðeins með því að virkja alla herstöðvaandstæðinga til raunhæfrar baráttu á öllum sviðum vinnst sigur. Afneita verður skilyrðislaust sérhagsmunum stjórnmálaflokka í herstöðvamálinu og upphlaupastefnu smáhópa og einstaklinga. Baráttan gegn bandaríska hernum á Miðnesheiði og gegn veru Íslands í Natô er ekki og má aldrei verða einkamál eins eða tveggja stjórnmálaflokka eða einangraðs hóps manna, þó svo þeir kalli sig herstöðvaandstæðinga. Heldur er þessi barátta ávallt mál mikils meirihluta íslensku þjóðarinnar.

STYRKUR AÐGERÐANNA

Einkennandi fyrir mótmælaaðgerðir herstöðvaandstæðinga í tilefni komu Natô-herskipanna til Reykjavíkur, var hversu aðgerðunum var vel fylgt eftir og hversu vel aðgerðirnar afhjúpuðu auma bletti hjá íslensku borgarastéttinni. Ofbeldi lögreglunnar gegn herstöðvaandstæðingum, sem mótmæltu komu Natóflotans, sýnir svo að ekki verður um villst, að íslensk borgarastétt er reiðubúin að beita valdatæki sínu, lögreglunni,




þegar beinum hagsmunum hennar er ógnað. Hrottaskapur lögreglunnar í garð herstöðvaandstæðinga á dögunum er eins konar forsmekkur að því, sem vænta má af hennar hálfu nú á tímum dýpkandi kreppu auðvaldsins og vaxandi andófi meðal almennings gegn kaupráni og kjaraskerðingu. Að neita herstöðvaandstæðingum að halda friðsamar mótmælaaðgerðir innan Keflavíkurflugvallar, sem er íslenskt landsvæði, gefur til kynna að íslensk borgarastétt er reiðubúin að brjóta í bága við stjórnarskrá landsins, og til að tryggja stjórnarskrárbrotin, beitir hún fyrir sig fjölmennu liði íslenskra lögreglumanna, slökkviliði Keflavíkurflugvallar og bandarískum hermönnum.

STJÓRNLEYSI AÐGERÐANNA

Skipulag aðgerðanna var mjög laust í reipunum og atburðarás sjálfra aðgerðanna virtist vera nokkuð tilviljunum háð. Einkum kom þetta berlega í ljós í mótmælaaðgerðunum við Keflavíkurflugvöll. Eftir ofbeldisaðgerðir lögreglunnar inn við Sundahöfn og blátt bann við mótmælaaðgerðum fyrir framan flugstöðvarbygginguna, var herstöðvaandstæðingum orðið heitt í hamsi. Undir slíkum kringumstæðum er mjög auðvelt fyrir upphlaupaseggi alls konar að nýta sér slíkar aðstæður til ódæðisverka. SHA verða að skipuleggja meðvitað varnir gegn slíkum upphlaupaseggjum á fundum og í mótmælaaðgerðum sínum. Einn, tveir eða þrír einstaklingar hefðu auðveldlega getað skaðað aðgerðir herstöðvaandstæðinga við Keflavíkurflugvöll ef svo bar undir með ódæðisverkum. Svona var skipulagsleysið mikið í sjálfum aðgerðunum. Anarkismi og rómantík stúdentaóeirðanna frá lokum síðasta áratugs eiga enga samleið með baráttu herstöðvaandstæðinga.

Skúli.

# Ísland greiddi atkvæði með löglegri stjórn Kampútseu

# Tíminn og Morgunblaðið á villigötum

Eins og fram hefur komið í fréttum þá studdi íslenska sendinefndin á þingi Sameinuðu þjóðanna hina löglegu stjórn Kampútseu þegar Sovétríkin og leppar þeirra reyndu að koma Heng Samrin-stjórninni að sem fulltrúa landsins. Þessi afstaða sendinefndarinnar - sem er hárrétt og í samræmi við sáttmála Sameinuðu þjóðanna hefur vakið upp nokkur blaðaskrif hér heima. Þar vekur sérstaka athygli hvernig tvö blöð a.m.k. hafa reynt að koma því inn hjá fólki að réttara hefði verið að sitja hjá við atkvæðagreiðsluna.

## Engar grundvallarreglur, ef marka má Morgunblaðið

Morgunblaðið hefur rekið upp ramakvein í leiðara og afhjúpað hversu ruglingsleg stefna blaðsins er í utanríkismálum.

Afstaða Mbl. er einn hrærigrautur - ekki er reynt að greina eitt atriði frá öðru, heldur öllu hellt í eina skál og spurt: "En hvaða munur er á stjórn Pol Pots og nýju valdhöfunum í Kambódíu?" Sáralítill segir Morgunblaðið. Þeir sem beita rökhugsun og er auk þess annt um sjálfsákvörðunarrétt þjóða eiga auðvelt með að koma auga á grundvallarmun á ríkisstjórn sem kemst til valda í alþýðuuppreisn sinna eigin landsmanna og hins vegar stjórn sem brýst til höfuðborgarinnar í skjóli erlends hers.

Morgunblaðið beitir enn fyrir sig fjöldamorðaorgíunni sem er nauðsynlegur þáttur í allri umfjöllun þess um Kampútseu. Með því skal málið afgreittt - út í buskann fjúka reglur um samskipti þjóða - um rétt hverrar þjóðar til að ráða sínum málum sjálf ofl. ofl.

Hvar stöndum við þá þegar blóðið hættir að leka úr pennum Morgunblaðsmanna? Við getum tæplega mótmælt innrás Víetnama með festu - því Pol Pot var svo slæmur. Við getum ekki rætt um það sem gerðist á valdatíma Pol Pot - hundruð þúsunda, og stundum milljónir skulu dauðar. Það er sáluhjálparatriði fyrir Morgunblaðið.

Við getum ekki krafist þess að ríkisstjórnir Íslands taki afstöðu sem er í bestu samræmi við sáttmála Sameinuðu þjóðanna. Þjóðsagan um Pol Pot er svo mögnuð að gagnvart henni er ekki hægt að hugsa skýrt, eða með orðum Morgunblaðsins: "Hvort það eru meiri eða minni hryðjuverkastjórnir kommúnista er ekkert sáluhjálparatriði í utanríkisstefnu okkar."

## Þórarinn vill sitja hjá

Þórarinn Þórarinsson hefur skrifað tvær greinar um þetta mál í Tímann. Hann kemst að þeirri niðurstöðu að rétt hefði verið að sitja hjá eða vera fjarverandi við atkvæðagreiðsluna. Hann telur m.a. að nú sé engin ríkisstjórn sem geti með réttu talist réttur fulltrúi landsins og því beri að skilja sæti Kampútseu eftir autt þar til að málin skýrast. Með þessu er verið að gefa eftir gagnvart þeim aðila sem hefur ráðist inn í Kampútseu og komið upp sinni eigin leppstjórn. Ef réttur Pol Potstjórnarinnar er dreginn í efa þá opnast ýmsir nýir möguleikar í alþjóðasamskiptum. Erlent ríki hefur þar með fengið frelsi til að koma á leppstjórn í nágrannalandi sínu - og jafnvel fengið hana viðurkennda hjá Sameinuðu þjóðunum! Þórarinn hefur ekki á sama hátt og Júgóslavar, Rúmenar, og nágrannaríki Kampútseu - ASEAN - löndin (Thailand ofl.) gert sér grein fyrir mikilvægi þessa máls fyrir allar sjálfstæðar þjóðir. Það kann að vera að stjórn Pol Pots sé ekki hátt metin hjá Þórarni. En hvort sem honum líkar betur eða ver þá er hún í þessu máli fulltrúi fyrir þann rétt þjóða að ráða sínum málum sjálf. Og Íslendingar ættu að hugsa sig um tvisvar áður en þeir telja slíkt léttvægt. Jafnvel þótt meintur harðstjóti eigi í hlut.




## Nokkur atriði sem hafa ber í huga

Ummfjöllun um þessi mál ætti fyrst og fremst að snúast um innrás Víetnama og brot gegn rétti Kampútseu. Víst er að stjórn Pol Pots er engin útlagastjórn eins og Morgunblaðið segir í leiðara - hún er í landinu og gegnir sínum störfum í samræmi við þau erfiðu skilyrði sem þar eru nú. Í dag er hungursneyð á stórum svæðum í landinu. Innrás Víetnama er orsökin - öllum þeim sem heimsóttu Kampútseu fyrir innrásina, jafnt opinberum sendifulltrúum sem vestrænum blaðamönnum, kom saman um það að fæðuöflun var í góðu lagi á valdatíma Pol Pot.

Dauði og tortíming hundruðþúsunda Kampútseumanna á undanförnum tíu árum á sér tvær meginorsakir. Annars vegar fórust um 800.000 manns í loftárásum bandaríska flughersins á árunum 1970 - 75 hins vegar hafa nú tugþúsundir látið lífið vegna innrásar Víetnama.

Málið er því að berjast fyrir brottför þeirra - en ekki að velta sér upp úr fjöldamorðakenningum sem beinast gegn þeirri hreyfingu sem er eina aflið í landinu sem getur barist gegn víetnamska hernum.

-Há.-